# Sameiningin.

*Mánaðarrit til styðnings kirkju og kristindómi Íslendinga. gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

14. árg. WINNIPEG, NÓVEMBER 1899. Nr. 9.


## Samfundir.

Prédikan út af Lúk. 24, 32—36, flutt í Fyrstu lútersku kirkju í Winnipeg sunnudaginn 22. Okt. af ritstjóra „Sam."

Textinn upplesni, sem eg hefi valið til þess að heilsa upp á yðr með á þessari stund, er alþekktr, stór-hátíðlegr og inndæll kafli úr guðs orði. Dýrðlegt brot úr guðspjallasögu nýja testamentisins, sem skýrir frá einhverju minnisstœðasta og huggunarríkasta atviki, er kom fyrir á æfi lærisveina frelsara vors Jesú Krists til forna. Dálítill kapítuli úr æfisögu þeirra, sem gjörðist austr í Gyðingalandi eina ógleymanlega kvöldstund, — að kvöldi fyrsta kristna páskadagsins í mannkynssögunni.—Eg þarf naumast að gjöra neina sérstaka grein fyrir því, hvers vegna eg seildist inn í sjálft páskahátíðar-guðspjallið eftir texta við þessa guðsþjónustu vora. Yðr hefir vafalaust skilizt það undir eins og þér heyrðuð mig lesa þennan guðspjallskafla upp. Hér í textanum er talað um samfundi. Og eg var að hugsa um samfundi—vina, sem um hríð hafa verið aðskildir. Hugsa um nýafstaðna fjarvist mína frá heimili mínu og þessum mínum kæra söfnuði. Hugsa um mig og mína, sem höfum verið langferðamenn. Hugsa um

farsæla ferð og gleðilega heimkomu. Hugsa um það, hve guð hefir verið oss góðr, — hans náð oss ferðamönnunum til handa í þessari fimm mánaða útivist, hans mildu varðveizlu á lífi voru þennan tíma bæði á sjó og landi, bæði á degi og nóttu. Hugsa um hið margfalda fagnaðarefni, sem drottinn hefir veitt oss í og með þessari ferð. Unaðinn af skoðan breytilegrar og stórskorinnar náttúru á fjarlægum stöðvum, úti á Íslandi. Hlý vinahót frá fornum og nýjum kunningjum. Margar angrblíðar endrminningar frá fyrri árum þar á ættlandinu kæra rifjaðar upp; margar fornar hugðnæmar myndir á ný mótaðar inn í sálir vorar. Gömul saga orðin eins og ný saga. Hið fjarlæga orðið nálægt. Og svo kom saga þessa safnaðar nú við heimkomuna hingað í hennar ýmsu megin-atriðum líka fram í huga mínum. Reynsla mín hér í sambandi við umliðna æfisögu safnaðarins. Persónuleg reynsla og félagsleg reynsla á þessum stöðvum, ýmist til gleði, ýmist til hryggðar, en æfinlega að því leyti, sem guð fékk að ráða, til blessunar. Kærleikr og tryggð frá félagsbræðrum og félagssystrum hér — það var með í þessari reynslu, einn mikilsverðr, marg-þakkarverðr þáttr í þessari reynslu. Mér þótti og þykir vænt, inndælt, að vera kominn aftr hingað heim. Um þetta var eg að hugsa og í þeim hugsunum miðjum minntist eg þessara spyrjandi orða í upphafi texta vors: ,,Brann ekki hjarta okkar í okkr meðan hann talaði við okkr á veginum og útlagði fyrir okkr ritningarnar?" Þetta var hið fyrsta, sem stýrði núveranda textavali mínu. Eg endrtók þessi orð, gjörði þau að mínum orðum, og svaraði þeim hiklaust játandi. Því mér var það fyllilega ljóst, að sá hinn sami, sem við er átt í þessari ritningargrein, hinn krossfesti og upprisni drottinn Jesús Kristr, var líka með okkr á veginum, á ferðalaginu öllu frá upphafi til enda, — var með í hinu ýmsa inndæla og elskulega, sem bar fyrir augu og eyru, stóð áminnandi, styrkjandi, gleðjandi, frelsandi á bak við allar hinar kæru endrminningar frá liðnu tíðinni, var í gegnum það allt við oss að tala. Mér var það al-ljóst, að þegar hjartað brann í brjósti mínu á ferðinni, þá var brennipunktrinn einmitt hann. Hann var þar hjá oss með sínum hlýja, brenn

heita kærleika til þess að minna oss ferðamennina á það, sem dýrmætast er til í guðs orði og útleggja fyrir oss ritningarnar.

Vinir mínir! Hann er ávallt með oss öllum, veikum og vanmáttugum lærisveinum hans, á vegferð lífs vors, þó að augu vor, því miðr, sé einatt svo haldin, að þau sjái hann ekki eða þekki hann ekki. Sérhvað eina í æfikjörum vorum, allt — undantekningarlaust allt — í umheimi vorum, allar myndirnar í mannlífinu og náttúrunni, sem bera fyrir augu vor á lífsleiðinni, — það eru allt eins mörg brot af einni allsherjar dœmisögu, sem kristnir menn geta lesið og eiga að lesa út úr sömu lærdómana, sem fyrir oss liggja beinlínis opinberaðir í frelsisorði kristindómsins, — óþrotlegar, ómetanlegar líkingar, sem hann, er ræðr yfir náttúrunni og mannkynsögu-ganginum, leggr fram fyrir augu vor til þess að halda endrminningunni um hin ýmsu atriði kristindóms-opinberunarinnar sívakandi í sálum vorum. Því frá honum og fyrir hann og til hans eru allir hlutir. Hann, frelsarinn, drottinn vor Jesús Kristr, hefir stöðugt verið að tala við oss nú á ferð vorri.

Eins og þér vitið hefi eg á þessum tíma, sem eg hefi verið burtu frá söfnuði mínum og heimili, haft hvíld frá embættisstarfi mínu og nálega ekkert átt við prédikan orðsins. En drottinn hefir hinsvegar á ýmsan hátt allan þennan tíma verið að prédika fyrir mér, á margvíslegan hátt verið að brýna fyrir mér hinar dýrmætu lexíur fagnaðarboðskaparins, minna mig ýmist beinlínis eða óbeinlínis á, hvað sí og æ þarf að prédika, og þá líka, hvað eg endilega yrði að prédika, þegar eg aftr tœki hér til starfs, gefa mér heilaga hvöt, ef unnt væri, ómótstœðilega hvöt, til þess að prédika orðið svo, að tilheyrendr mínir aldrei þyrfti að missa sjónar á eða í hugsunum sínum að fara fram hjá brennipunkti þess orðs — hinni frelsandi náð guðs í Jesú Kristi.

Og svo kem eg þá, brœðr og systr, fram fyrir yðr nú með samskonar vitnisburð, sömu játning, sama fagnaðarefni, eins og hinir tveir samferðamenn, er sögubrot texta vors skýrir frá, lögðu fagnandi og sigrihrósandi fram fyrir hóp hinna lærisveinanna, þegar þeir hittu þá aftr í samkomusalnum í Jerúsalem nýkomnir úr ferðinni til Emmaus á páskadagskvöld.

Hlýt að segja við yðr nú, þegar vér hittumst aftr á þessum stað, hið sama og þeir sögðu vinum sínum við þá samfundi, þó að trú mín vitanlega sé veik, þó að eg hátíðlega játi, að eg enn eins og áðr ber fjársjóð trúarinnar í brothættu leirkeri. Þeir sögðu frá því óvænta og óumrœðilega gleðilega atviki, sem við hafði borið á veginum, að meistarinn þeirra, Jesús, sem þeir þrem dögum áðr höfðu horft á eftir út í hinn grimma kvaladauða krossfestingarinnar og hugðu sig hafa misst óaftrkallanlega út í geigvænt myrkr grafarinnar, væri á lífi, hefði slegizt óþekktr í för með sér á Emmaus-göngunni, hefði — enn þá óþekktr — talað við sig á veginum og útlagt fyrir sér ritningarnar með þeim áhrifum, að hjörtu þeirra tóku að brenna, og að þeir síðan, þegar inn í þorpið var komið og þeir sátu undir borðum með honum, hefði þekkt hann í því hann braut þeim brauðið. Og eg vitna hiklaust hið sama. Hann var enn með á veginum. Hann var oss samferða. Þegar hjartað brann af hinu ýmsa inndæla, angrblíða og elskulega, sem fyrir kom á ferðinni, þá var hann þar sjálfr í eigin heilagri lifandi persónu í og með, vitnandi um sinn eigin frelsanda kærleik, minnandi á og útleggjandi fyrir oss ritningarnar. Og þegar hann svo aftr og aftr braut oss brauðið í andlegum skilningi, talaði beinlínis til vor í orði hins eilífa lífs, þá var ómögulegt annað en að hafa það fyrir satt, að það var hann sjálfr, sem hélt á hjartanu, veiku, en brennanda, í almáttugri kærleikshendi sinni. — Og svo vil eg þá biðja góðan guð þess, að þegar hjarta mitt framvegis tekr að brenna út af fagnaðarefni eða hryggðarefni því hinu ýmsa, sem ókomin æfikjör mín kunna að hafa í för með sér, að þegar hjarta mitt kemst við af því eða því, sem framvegis verðr fyrir mér á vegferð lífsins, þá verði það hann, frelsarinn minn krossfesti og upprisni, sem ræðr yfir þeirri tilfinning, þá leiði sú tilfinning mig beint til hans, svo að eg við æfilokin geti hátíðlega vitnað um það, að hann hafi stýrt ferð lífs míns og sé enn með mér frelsandi á leiðinni út í dauðann. En þá einnig engu síðr biðja þess, að sama verði lífsreynslan fyrir yðr öllum, sú, að hann sé með yðr á yðar vegferð á sama hátt og þér hafið lært að þekkja hann sem blessaðan leiðtoga lífs yðar,

helgað honum hjarta yðar og trúað honum fyrir yðr bæði í blíðu og stríðu, bæði í lífi og dauða.

En þetta er að eins partr af fagnaðarefni því, sem nú við samfundi vora eftir aðskilnaðinn ætti að vera uppi á teningnum, að eins einn þáttr af hinni kristilegu samfundalexíu, sem texti vor kemr með og leggr oss upp í hendrnar. Fagnaðarefnið er enn miklu, miklu víðtœkara. Textinn bendir miklu, miklu lengra. Ekki að eins aðkomumennirnir, sem þar er frá sagt, höfðu mikinn fagnaðarboðskap að flytja félögum sínum og ástvinum, sem fyrir voru. Ekki að eins þeir gátu vitnað um það, að hjörtu þeirra hefði brunnið út af því, sem fyrir þá hafði komið á ferð þeirra. Ekki að eins þeir höfðu sannfœrzt um það, að meistarinn krossfesti var á lífi og hafði verið með þeim og talað við þá á veginum. Þeir, sem fyrir voru, höfðu í fjarveru hinna orðið fyrir alveg sömu náðinni, haft nákvæmlega samskonar reynslu sér til fagnaðar og frelsunar. Frelsarinn hafði jafn-mikið verið að hugsa um lærisveinana, sem sátu heima, eins og um ferðamennina. Svo að þegar hinir síðar nefndu lærisveinar komu með sín nýju tíðindi og sinn nýja fögnuð, þá gátu hinir, sem fyrir voru, heilsað upp á þá fagnandi og sigrihrósandi út af því, að Jesús hefði líka minnzt þeirra og sannfœrt þá um náðarnávist sína. ,,Þeir fundu þá ellefu saman safnaða''—segir textinn—,,og þá, sem með þeim voru, sem sögðu: ,Drottinn er sannarlega upprisinn og hefir birzt Símoni'.''—Svona voru þeir samfundir. Svona heilsuðu hvorir upp á aðra. Svona mœttust vitnisburðir trúarinnar og fagnaðarkveðjurnar komandi úr ýmsum áttum. Og svona ætti vissulega vorir samfundir að vera. Svona ættum vér að geta heilsað hvorir upp á aðra. Og svona vona eg að heilsunum vorum sé í raun og veru varið.

Að líkindum skortir marga hér í hópi safnaðarins þann styrk og þá djörfung trúarinnar, sem útheimtist til þess að geta lagt fram opinberlega eins hiklausan vitnisburð um návist hins upprisna frelsara eins og kemr svo fagrlega fram í texta vorum hjá hvorumtveggja mönnunum, sem þar mœttust og heilsuðust. Og vafalaust eruð þér allir fúsir til að játa

veikleik trúar yðar. Og flestir fyrirverða sig líklega að láta nokkur stór orð til vitnisburðar um persónulega kristilega trúarreynslu til sín heyra opinberlega frammi fyrir almenningi. Berandi kvíðboga fyrir því, að þeim verði í ókominni tíð ofvaxið að standa við slík stór orð í lífi sínu. Hræddir um, að þeir út af slíkum orðum kunni að verða sér til minnkunar. Vitandi, að mannshjartað er óstöðugt og tilfinningum þess í hina góðu og drottinlegu átt marg-oft alls ekki að treysta. Og eg tek þá auðmýktar-meðvitund í Jesú nafni góða og gilda. En engu að síðr hlýt eg líka í hans nafni að ganga út frá því eins og nokkru sjálfsögðu, að í sálum yðar allra, sem í einlægni viljið vera lærisveinar Jesú Krists, ómi undirrödd, sem vitnar um sannleik kristindómsins og meðal annars sérstaklega um það, að hann sjálfr, mannkynsfrelsarinn, sé á lífi; og ekki að eins á lífi í óendanlegri fjarlægð, einhversstaðar langt burtu hið efra út í himinblámanum, eða í hinni óaðgengilegu himnesku dýrð, að sínu leyti eins og guðs börnin, sem hér hafa skilið við, þegar pílagrímsgöngu þessa lífs var lokið, — heldr líka sé hann hér á lífi og persónulega með öllum sínum lærisveinum, styrkjandi þá, áminnandi, huggandi, gleðjandi, frelsandi, blessandi, nákvæmlega eins og hann var með lærisveinum sínum til forna eftir upprisuna, bæði þegar þeir voru á ferð og þegar þeir héldu kyrru fyrir. Þau brunnu — hjörtun í lærisveinunum á Emmaus-göngunni — áðr en þeim var orðið það ljóst, hver það var, sem slegizt hafði með þeim í ferðina og var að tala við þá, hrygga, kvíðandi og vonlausa, á veginum. Seinna þekktu þeir hann, og þá voru þeir ekki lengr í neinum vafa um það, að það var hann, og ekkert annað, sem var valdr að því, að hjörtu þeirra tóku að brenna. Hvað var sá bruni hjartnanna? — hin sára, en sæluríka tilfinning í þeirra innra manni? — hinn blessaði sársauki í brjósti þeirra? Það var ekkert minna en hann sjálfr, úthellandi hinum milda, frelsanda kærleik sínum út yfir reynslu þeirra eigin lífs, hann sjálfr til þeirra kominn með blessan eilífs lífs út yfir og inn í raunirnar og sorgirnar þeirra, hann sjálfr með náðarnávist sinni látandi hið mesta böl verða að hinni mestu blessan, —

hann sjálfr, hinn krossfesti og upprisni drottinn Jesús Kristr, haldandi á þeim með öllu því, sem þeir áttu, í almáttugri frelsarahendi.

Vinir mínir, brœðr og systr í þessum söfnuði! Hafið þér ekki aftr og aftr á liðinni æfitíð haft merki þess, að frelsarinn var með yðr? að ósýnilegr leiðtogi var með yðr, segjandi yðr til vegar og sýnandi yðr, hvar lífsblessan yðar lá? Og hafið þér ekki meðal annars á þessum mánuðum, sem liðnir eru síðan eg átti hér tal við yðr síðast, að minnsta kosti öðru hverju kennt návistar hans? Hefir daglega lífið yðar ekki yðr vitanlega að einhverju leyti verið samtengt við hann, snortið af anda hans persónulega, styrkt af orði hins eilífa lífs, sem frá honum er út gengið? Hafið þér ekki við og við reynt það, að hjörtu yðar komust við á líkan hátt og lærisveinanna til forna, þá er hinn ókunni samferðamaðr talaði við þá og útlagði fyrir þeim ritningarnar? þér hafið heyrt rödd hans alveg víst í orði því, sem yðr hefir verið boðað hér í kirkjunni meðan eg var burtu. Hann hefir verið hjá yðr við guðsþjónustufundi yðar hér á þessum stað. En hann var hjá yðr líka utan kirkju á heimilunum og við hin veraldlegu hversdagsstörf. Ef störfin hafa heppnazt, þá var það hann, sem lét þau heppnast, úthellti yfir þau blessan sinni. Að því leyti, sem þér nutuð gleði, saklausrar gleði, þá var hann með yðr. Hann gaf yðr gleðina. Var sjálfr þungamiðjan í þeirri gleði. Og að því leyti, sem þér hafið kennt hryggðar, heilagrar hryggðar út af syndinni eða mótlætinu, sjálfra yðar eða annarra, þá hefir hann líka þar verið með yðr, — takandi á hjarta yðar svo, að það beinlínis tók til að brenna. Örlög lífs yðar margra hafa stundum komið hart og sárt við yðr — vafalaust líka nú í næstliðinni tíð, nú meðan eg var yðr fjarlægr að líkamanum til. En í rauninni var það hann, sem þá var til yðar komandi og minnti yðr gegnum sársaukann á það, sem dýrmætast er af öllu, sæluefnið eilífa, sem er hann sjálfr. þetta vitnar áreiðanlega samvizka hvers einstaks í safnaðarhópnum, hin guðlega undirrödd í hjörtum einstaklinganna. Og ef þér að eins sinnið þeirri undirrödd, þá veit eg með vissu, að þér getið ekki annað en sagt hátíðlegt og hjartanlegt já og

amen við þeirri yfirlýsing frá mér nú við samfundi vora, að frelsarinn hafi verið með á næstliðinni tíð, eruð fúsir til að taka heilsan minni með sömu hugsan eins og lærisveinarnir í Jerúsalem, sem þar voru fyrir, tóku vitnisburði hinna tveggja félaga þeirra, sem um hríð höfðu skilið við þá, þegar fundum bar aftr saman á páskadagskvöld.

En það í sögu texta vors, sem varðar meiru en allt annað, það, sem eg nú hlýt að leggja lang-mestu áherzluna á, er þó enn eftir. Og það er þetta: þegar aðkomumennirnir höfðu mœtt félögum sínum, sem fyrir voru í samkomusalnum í Jerúsalem, og þegar hvorirtveggja höfðu heilsazt og borið fram vitnisburði sína á víxl, látið hvorir til annarra fögnuð frá sér út ganga út af því, sem fyrir þá hafði komið hvora í sinni áttinni, þá stóð Jesús í eigin lifandi persónu þar hjá þeim, mitt á meðal þeirra, og heilsaði sjálfr upp á þá, segjandi: „Friðr sé með yðr!" þetta er yðr og mér nú meira virði en allt hitt í hinni fyrirliggjandi samfundalexíu. þér þurfið nú, ef vill, ekkert tillit að taka til vitnisburðarins, sem kemr frá mér, langferðamanninum, nýkomnum heim til yðar, um persónulega, kristilega lífsreynslu mína í þessari útivist. Og eg gæti líka látið vera að taka neitt tillit til trúarlegrar lífsreynslu yðar á sama tíma, sleppt öllum getgátum um það, að þér hljótið að hafa fengið endrteknar sannanir fyrir návist frelsarans, persónulegum kærleiks-afskiftum hans af yðr í liðinni tíð. Vér gætum, ef til vill, efazt hvorir um annarra áreiðanlegleik að því er það snertir, að lesa rétt úr táknum tímanna og vorrar eigin æfisögu. Vér gætum dregið stryk yfir allt sjálfum oss tilheyranda í liðnu tíðinni. Og til þess að fagnaðarefni það, sem nú skal sérstaklega á bent samkvæmt textanum, fái komið út í allri þess fylling og dýrð, er víst lang-bezt að hvorttveggja hitt sé allra snöggvast látið hverfa. Drottinn vor Jesús Kristr er hjá oss nú. Hann er hér mitt á meðal vor með hinni frelsandi náð sinni og heilsar upp á oss, hvern út af fyrir sig og alla saman í einum hópi, nákvæmlega alveg eins og hann heilsaði upp á lærisveina sína forðum, þá, sem voru nýkomnir úr Emmaus-förinni, og þá, sem fyrir voru þar í samkomusalnum í Jerúsalem: „Friðr sé

með yðr!" Hann vill nú vera með oss öllum, heilsar svo milt og blítt upp á oss alla, býðr oss öllum frið, hinn himneska blessaða frið, sem heimrinn getr ekki gefið. þessu má enginn gleyma. Og á þetta skal nú öll áherzlan lögð. Öllum tilheyrir þessi kveðja. Öllum undantekningarlaust er boðinn þessi friðr, án alls tillits til þess, hvernig að undanförnu hefir verið búið um hnútana til tryggingar hinu persónulega lífi. þá, sem hafa verið honum nálægir, og þá, sem hafa verið honum fjarlægir, kallar hann á alla eins, og býðr þeim sinn frið, — frelsan frá syndinni fyrir blóð friðþægingarinnar og samfara þeirri frelsan þann frið hjartans, sem œðri er öllum mannlegum skilningi. Friði guðs er fyrir Jesúm Krist úthellt yfir þessa syndugu jörð. Heilögum friði eilífs lífs innblásið í hjörtu einstaklinganna allra, sem meðtaka hinn krossfesta og upprisna guðs son eins og lausnara sinn, leiðtoga á æfiförinni, drottin síns lífs. þarna er ráðgáta lífsins leyst. þarna er hinn frelsandi brennipunktr í lífi einstaklinganna allra, sem mynda mannkynssöguna. Og þarna er jafnframt miðpunktr kristindómsopinberunarinnar. Eins og það líka var miðpunktr í lofsöng hinna himnesku herskara á jólanóttinni, þegar frelsarinn fœddist: „Dýrð sé guði í upphæðum, *friðr* á jörðu og velþóknan yfir mönnunum!" Hann kom í heiminn, úr hinni himnesku dýrð niðr á land syndanna, sorganna og kvalanna, til þess að útvega mönnum þennan frið. Og ósýnilegr er hann eftir líkamlega burtför sína hér hjá oss, gengr við hlið vora og býðr hverju mannsbarni þennan frið. Náð sé með yðr og friðr frá guði föður fyrir drottin vorn Jesúm Krist! þannig hljóðar hið postullega kveðjuorð margendrtekið. Og þessi kveðja fylgir kristindómsorðinu hvert sem það berst út um hinar jarðnesku mannabyggðir. Og hvar sem syndug mannssál gengr frelsaranum á hönd og tekr að lifa með honum og í honum, þá verðr kveðjan þessi milda og blessaða að áhrínsorði.

Ó, kærir tilheyrendr! þér eruð allir ferðamenn, allir meira eða minna þreyttir ferðamenn, sumir dauðþreyttir, svo liggr við, að þér hnígið örmagna niðr til jarðar, sumir, ef til

vill, alveg uppgefnir. Þér þráið hvíld — hvíld og frið. Heyrið þá ávarp hins upprisna Jesú, sem leið og dó fyrir yðr: ,,Komið til mín allir, þér, sem erviðið og þunga eruð hlaðnir; eg vil gefa yðr hvíld.'' Og þetta, hið inndæla kveðjuorð hans í texta vorum: ,,Friðr sé með yðr!'' Þiggið þá hvíld, allir hinir þreyttu. Meðtakið þann frið, þér allir, sem finnið til þess, að þér standið uppi í stríði og baráttu. Ekki er endilega við því að búast, að baráttan hætti undir eins við það, að ganga frelsaranum í hjartans alvöru á hönd. Eins líklegt, að hún haldi áfram, ef til vill einmitt harðari að sumu leyti fyrir bragðið, — eins og svo greinilega kemr fram í æfisögu lærisveina Jesú til forna. En öllum slíkum skal veitast hvíld í þreytunni og friðr í baráttunni.

Höldum áfram vinnu vorri, þótt þreytandi kunni að vera, vonglaðir, trúaröruggir í Jesú nafni, með fyrirheitið hans um hvíldina í huganum. Og göngum út í áframhaldandi baráttu fullvissir um að geta fyrir trúna á hann og samlífið með honum haldið hinum blessaða guðlega friði í sálum vorum.

Með þessu gæti eg nú endað mál mitt í þetta sinni, vitandi, að eg hefi hér, eftir því, sem eg hefi haft máttinn til beint hugum yðar, kærir tilheyrendr, að meginatriði trúarerindis þess, sem fyrir oss liggr í texta mínum, fyrirheitinu frá frelsaranum um frið til handa öllum lærisveinum hans. En eg má ekki enda rœðu mína svo, að eg ekki með nokkrum orðum minnist missiraskifta þeirra, sem nú — enn einu sinni á æfi vorri — eru yfir oss að líða. Vetrinn er byrjaðr. Eftir hinu gamla tímatali þjóðar vorrar byrjaði vetrinn í gær. Og þó að sú kalda, harða og dapra árstíð, sem nefnd er vetr, sé vitanlega ekki fullkomlega gengin í garð hér hjá oss í ríki náttúrunnar, þá er þó talsvert af reglulegum vetrarmerkjum, forboðum þeirrar árstíðar, þegar komið fram. Uppvisnuð jörð. Meiri kuldi en áðr í loftinu. Lítið eitt snjóað, þótt nú sé aftr upp tekið. Fullkominn haustbragr yfir öllu. Ímynd dauðans í öllum áttum. Það liggr líklega í eðli vor allra, að kvíða fyrir vetrinum. Eða, ef menn ekki beinlínis kvíða fyrir þeirri árstíð, þá knýr hún þó alla, sem nokkuð hugsa og ekki eru alveg hættir að finna til, til háalvarlegra hugleiðinga. Því

vetrinn í náttúrunni er eitt standanda drottinlegt tákn þess í lífsörlögum vorum, sem náttúrlegri tilfinning vor allra stendr hvað mestr stuggr af. Að sínu leyti eins og hin milda og frjóa árstíð, sumarið, er stöðug ímynd þess í örlögum vorum, sem mönnum ósjálfrátt þykir svo vænt um. Sumarið er ímynd lífsgleðinnar og meðlætisins. Og jafnvel lífsins sjálfs. Vetrinn hinsvegar er ímynd mannlífssorganna og mótlætisins. Og enn meira: líka beinlínis tákn dauðans, hins líkamlega dauða. Þessar tvær svo undr ólíku árstíðir mœtast hér á stöðvum vorum einmitt nú. Það er eins og tvær lifandi persónur, út sendar úr öðrum heimi, sé hér staddar, standandi sín hvorum megin ákveðinnar, en ósýnilegrar landamerkjalínu, réttandi út hendr sínar hvor að annarri til að heilsast eða kveðjast. Hér eru þá líka reglulegir samfundir, eins verulegir samfundir eins og þeir, sem textinn minn hefir gefið mér tilefni til að tala um hér á undan í rœðu minni, þó að þessir samfundir sumarsins og vetrarins sé með nokkuð öðru móti. Sumarið er að kveðja. Vetrinn er að heilsa. Kveðjan er til vor, og heilsanin er til vor. Sumarið kom með góðar gjafir oss til handa. Og við þeim er vetrinn að taka, líka oss til handa. Góðar og hugðnæmar voru þessar sumargjafir, —því sumarið var blessað sumar. Af gjöfum sumarsins eigum vér að all-miklu leyti að lifa á komanda vetri og fylla með þeim forðabúr vor. Það eru bæði líkamlegar og andlegar gjafir. Vinir mínir! Gleymið ekki að þakka góðum guði fyrir þær og biðja hann að leggja yfir þær himneska blessan sína. Biðjið hann um náð til að ávaxta hinn fengna vetrarforða yðr til eilífs lífs.

En vetrinn kemr líka með sínar sérstöku gjafir í viðbót við þær, sem hann tekr við af sumrinu, oss öllum til handa til afnota og ávöxtunar. Vetrinn í bókstaflegum skilningi og vetrinn sem tákn. Kalda og harða tíðin er líka blessan. Jörðin hefir fengið hvíld, sem hefir það í för með sér, að hún fær safnað kröftum til nýrrar framleiðslu og nýs lífs með næsta komanda sumri. Látum vetrar-stormana blása og frostið binda vötnin saman og læsa sig langt niðr í jarðveginn. Jörðin fær hvíld á meðan, og hvíldin leiðir á sínum tíma til alls-

herjar upprisu í jurtaríkinu. Og meðan jörðin hvílir sig, er oss, skynsemi og frjálsræði gœddum verum, mönnunum, líka augsýnilega bent til þess að leita sálum vorum heilagrar sabbatshvíldar. Á þeim árstíma enn þá fremr jafnvel en á hinni blíðu sumartíð.— En svo er að hugsa um vetrinn að því leyti, sem hann er tákn frá drottni. Hann táknar eins og eg sagði harðneskjuna í æfikjörum vorum. Hann táknar eymdarkjör hins fátœka Lazarusar í einni ógleymanlegri dœmisögu frelsarans. Hann táknar Job í hinum grátlegu sjúkdómsharmkvælum. Hann táknar Jóhannes skírara í böndunum, postulana í dýflissunum, Stefán hníganda undir grjóthríðinni. Hann táknar hina makalausu píslarsögu drottins vors Jesú Krists; og þar sem hann heilagr leið einn fyrir alla og tók inn í þá píslarsögu þrautir og þjáningar gjörvalls mannlífsins, þá táknar vetrinn auðvitað mótlætið allt í mannkynssögunni, mótlæti góðu mannanna og meira að segja líka mótlæti vondu mannanna. En hvernig er nú allsherjar lögmál lífsins, að því, er til mannanna kemr, og að því, er mótlætið snertir. Það er svona: Gegnum margar þrengingar byrjar oss inn að ganga í guðs ríki. Góðu mennirnir, sem lifað hafa, hafa víst langflestir—til þess ekki að segja allir—að meira eða minna leyti verið mótlætismenn. Fyrir mótlætið drógust þeir enn nær guði en ella hefði getað orðið,—styrktust og hreinsuðust í eldraunum mótlætisins. Og veruleg mikilmenni í guðlegum skilningi hafa áreiðanlega engir orðið, sem að öllu leyti hafa komizt hjá slíkum eldraunum. Og að því, er til vondu mannanna kemr, þá er vitanlega lang-mest von um það, að þeir fái frelsazt úr þrældómi syndanna og orðið góðir menn, beygt odd af oflæti sínu og í auðmýkt hjartans lagt sig undir vilja guðs, stjórn mannkynsfrelsarans, þegar þeir fyrir alvöru eru teknir til nauðugir viljugir að vaða hina köldu dauðamóðu mótlætisins. Svo vetrinn í bókstaflegum skilningi og það, sem þeirri köldu árstíð samgildir í mannlegum æfikjörum, er í sjálfu sér góð guðs gjöf, sem engu síðr er vert að þakka drottni fyrir en sumarið og það, sem það táknar í lífi voru. Vetrinn bæði í bókstaflegum og andlegum skilningi getr orðið oss öllum til stórkostlegrar blessunar. Hann á að verða það og hann verðr

það alveg víst, ef vér göngum inn í hann og undir honum með sannri og lifandi trú á mannkynsfrelsarann Jesúm. Í og með trúnni á hann, gegnum sjónauka þann, sem hann hefir gefið oss, lærisveinum sínum, sjáum vér jafnvel enn þá meiri dýrð á vetrarhimninum en á sumarhimninum. Og þá fyrst, þegar vér höfum fest augu vor við þá dýrð, dýrðina, sem vetrarríkið opinberar, getum vér til hlítar lært að meta sumarið og sumargjafirnar rétt og notað það og þær oss til fullkominnar blessunar.—Og hugsum nú síðast um vetrinn sem tákn sjálfs dauðans. Það er háalvarleg hugsan. En fyrir þá alla, sem vita af frelsaranum með sér veranda, komnum til sín með hjálpræði friðþægingarinnar og hinn himneska frið, er það sigri-hrósandi hugsan.

Í hans nafni sé þá vetrinn oss öllum velkominn í þetta sinn. Og þegar vetrarríkið í æfikjörum vorum fellr yfir, hve nær sem það verðr, þá sé það líka í hans nafni velkomið. Og dauðinn, þegar hann ber að höndum, sömuleiðis fyrir hans kærleikskraft velkominn. Og þegar allt þetta er velkomið, þá verðr gott að hugsa til samfundanna hinum megin.

## Sitt hvað smávegis út af Íslands-ferðinni.

Ritstjóri ,,Sam.", séra Jón Bjarnason, kom ásamt konu og börnum og séra Friðrik J. Bergmann úr Íslands-ferðinni til Winnipeg 18. Okt. Séra Rúnólfr Marteinsson hefir meðan á þessari Íslands-ferð stóð í nafni séra Jóns annazt ritstjórn ,,Sameiningarinnar". Síðan hefir hann ferðazt til Nýja Íslands og vinnr þar nú að kristindómsmálum um hríð. Heimsœkir væntanlega fleiri Íslendinga-byggðir rétt bráðum.

Vestr-íslenzku ferðamennirnir dvöldu á Íslandi frá 29. Júní til 26. September og ferðuðust víða um land. Séra Jón flutti rœðu um ferðina og ástandið á Íslandi á opinberri samkomu í Winnipeg hinn 30. Okt. Og flytr ,,Lögberg" ágrip af þeirri rœðu. Um kirkjulífið og trúarmálin þar er þó ekkert sagt í því ágripi, enda snerti rœðan það efni að eins lítið. Þeir

séra Friðrik og séra Jón fluttu hvor um sig tvær prédikanir í Reykjavík. Og út um land prédikaði hinn fyrr nefndi á þessum stöðum: Akreyri, Sauðárkrók og Eyrarbakka. Og hinn síðar nefndi að Stafafelli í Lóni, Laugardœlum í Flóa og Görðum á Álftanesi. Fám dögum áðr en þeir stigu á skip til burtfarar frá Íslandi tóku þeir þátt í trúarsamtalsfundi einum í Reykjavík, sem séra Jóhann Þorkelsson prófastr—dómkirkjuprestrinn—kvaddi til. Umrœðuefnið var: *sannr kristindómr*. Fundr þessi, sem haldinn var að kvöldi dags í hinum prýðilega samkomusal Iðnaðarmannahússins þar í bœnum, var einkar vel sóttr og stóð yfir fjórar klukkustundir. Það er víst fyrsti fundr þeirrar tegundar í sögu Íslands. Og ef nokkuð má marka tilhneigingar Reykvíkinga í trúarlífsáttina og almennings yfir höfuð, eftir því, sem kom í ljós á þessum fundi, þá er óhætt að fullyrða, að þær sé all-sterkar. Menn þrá áreiðanlega nú þar heima meira ljós, og það einmitt sannkristilegt trúarljós. Miklu miklu fleiri sóttu samtalsfund þennan en fengið gátu sæti. Og biðu samt fundarloka í kyrrð og þolinmœði eins og ekkert væri að, hlustandi á umrœðurnar með sívaxandi eftirtekt og ánœgju. Og þegar fundi var slitið um miðnætti, þá voru víst ekki fáir, sem þótti langt um of snemma hætt, enda heyrðu menn suma segja, að þeir hefði fegnir viljað sitja á fundinum alla nóttina. Hinn lögskipaði héraðsfundr fyrir Kjalarnessprófastsdœmi var haldinn í Reykjavík rétt um sama leyti. Og varð það þar að ályktan, að fara nú framvegis að halda svona lagaða trúarsamtalsfundi á ýmsum stöðum í því héraði.

Hinar fimm prédikanir, sem séra Friðrik J. Bergmann flutti á Íslandi í sumar, lét hann, rétt áðr en hann lagði á stað þaðan, prenta í Reykjavík. Aðal-titill þess ritlings, sem er vandaðr mjög að frágangi öllum, er *Eina lífið*. Efni prédikananna er: Kröfur kærleikans,—Baráttan gegn hinu illa,—Elskar þú frelsara þinn?—Leggr þú líf þitt í fjárhirzlu drottins?—Uppsprettur hjálpræðisins.—Séra Friðrik gaf stóran part af upplaginu til stuðnings unglingafélagsskapnum kristilega í Reykjavík, sem nafni hans, Friðrik Friðriksson, guðfrœðis-

stúdent á prestaskólanum, stór-merkr og einkennilegr kristindómsvinr, hefir með aðdáanlegum dugnaði komið á fót og heldr uppi. En hitt allt af upplaginu tók höfundrinn með sér hingað vestr, og er það nú til sölu hjá honum, Halldóri S. Bardal í Winnipeg, og víðar um byggðir Vestr-Íslendinga. Eintakið kostar hér 25 cent. Rœðurnar eru hver annarri ágætari. Og ætti ekki að þurfa að hvetja kirkjulega hugsanda fólk í söfnuðum vorum til að kaupa ritið og lesa það vandlega.

Séra Valdemar Briem að Stóra-Núpi, sem ritstjóri ,,Sam.'' ásamt ferðafólkinu hinu, heimsótti sér til stór-mikillar ánœgju, heldr áfram að yrkja sín fögru og þýðu trúarljóð. Svipr náttúrunnar umhverfis þann bœ, sem nú er prýðilega hýstr, eins og þar sem allra bezt er á Íslandi, er nákvæmlega eins og sviprinn á öllum þeim skáldskap, sem liggr eftir séra Valdemar. Enginn snyrtilegri né friðmildari blettr er víst til á Íslandi en í brekkunni, þar sem bœrinn að Stóra-Núpi stendr. Og þegar upp á núpinn fyrir ofan bœinn er komið, þá víkkar sjóndeildarhringrinn stórum. Og í þeim sjóndeildarhring birtist sumt af því, sem stórkostlegast og hátignarlegast er í íslenzku náttúrunni. Undirlendið mikla í Árnessýslu og Rangárþingi allt út til sjávar blasir þá við. Hin mikla Þjórsá rennandi eftir dalnum austr af núpnum, og Hekla, eldfjallið fræga, sem allr heimr kann að nefna, rísandi upp í sinni eyðilegu, en konunglegu dýrð, lengst burtu í sömu átt. Séra Valdemar bregðr sér stundum upp á núpinn. Og þá verðr sjóndeildarhringr hans sem skálds víðtœkari og stórskornari. Hann ætlar ekki að gleyma ,,Sameiningunni'' framvegis. Það verðr, ef guð lofar, áframhald af ljóðum eftir hann hér í blaðinu.

Séra Mattías Jokkumsson er ekki heldr enn af baki dottinn. Ritstjóri ,,Sam.'' hafði líka þá ánœgju að sœkja hann heim á Akreyri. Hann hafði þá fyrir skömmu ásamt mörgum norðlenzku prestunum setið á frjálsum kirkjulegum fundi þar í kaupstaðnum. Og var nýbúinn að yrkja ljóðabálk einn mikinn til að setja í rit það, er prestarnir ætla að gefa út til minningar um þann fund og félagsskap þann þeirra á milli, er stendr í sambandi við þetta fundarhald. Þeir eru að leitast við að endrreisa hið gamla Hólastifti í andlegum skilningi,

og út af þeim félagsskap og þeirri lífsglœðingar-tilraun yrkir séra Mattías í þessum nýju ljóðum sínum. Það sést alls engin aftrför hjá honum hvorki í þessu né neinu öðru, sem hann hefir orkt nú í síðustu tíðinni. Andinn lifir æ hinn sami. Honum finnst þó, að ellin sé farin að fœrast yfir sig. Og hann er að líkindum í þann veginn að hætta við prestsskap—með sérstökum og marg-verðskulduðum eftirlaunum úr landssjóði, sem alþing í sumar veitti honum.

---

Hr. G. S. Haller að Cuba-pósthúsi í Nebraska hefir í sumar sent féhirði kirkjufélagsins, hr. Jóni Blöndal, $10,00 (tíu dollara) að gjöf í skólasjóð. „Sam." beðin að kvitta fyrir með hjartanlegum þökkum.

---

— Hjá ritstjóra „Sam." fást nú íslenzkar biblíur og nýja testament frá brezka biblíufélaginu). Biblían kostar $1.45,nýja testamentið 60 cts.

---

Hr. *Sigrbjörn Sigrjónsson*, 609 Ross Ave., er innköllunarmaðr „Sameiningarinnar" í Winnipeg.

---

Hr. *Magnús Pálsson*, 309½ Elgin Ave., sendir „Sam." út.

---

Hr. *Jón A. Blöndal*, 207 Pacific Ave., Winnipeg, er féhirðir „Sam."

---



---

„SAMEININGIN" kemur út mánaðarlega,12 nr. á ári. Verð í Vesturheimi: $1.00 árg.; greiðist fyrirfram. —Skrifstofa blaðsins: 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—Útgáfunefnd: Jón Bjarnason (ritstj.), Friðrik J. Bergmann, Jón A. Blöndal, Rúnólfr Marteinsson og Jónas A. Sigurðsson.

---

PRENTSMIDJA LÖGBERGS — WINNIPEG.